(Þess íslendska evangeliska
Smábóka-Félags rit No. 43.)

# Syndarinnar megn í mannligri náttúru.

(Útdrag.)

Þegar Frelsarinn vor talaði fordum um þad, ad hann vildi veita Gydíngum Frelsi (Jóh. 8, 33) hneigsludust þeir þar á. Dramb þeirra stygdist vid, ad þeir skyldu álitnir vera sem þrælar, og þó voru þeir þad í sannleika; og svoleidis er sérhvör syndari, jafnvel þó hann ei til þess finni, uns Christur hefir hönum Frelsi veitt. Og því leingur sem hann heldur áfram í því ástandi, því fastari verda hans þrældóms fjötur, og hann því ófærari úr þeim ad losast.

Syndin er þvílíkur hardstjóri, er aldrei gefur þrælum sínum hvíld, heldur rekur þá sífeldt frá einu verki til annars, uns hún lokid hefir vidleitni sinni, og steypt þeim í daudann. Vegur syndarinnar er þvílíkur, á hvörjum eingin vidstada gefst; hann er eins og braut

sú, er forbreckis liggur, á hvorri sérhvert fót-mál skédur med hardri rás, uns á undirlendi stadar nemur. Og þvílíkt er til-lit þessara meiníngarfullu Postulans orda: þér vórud þrælar ránglætisins til ránglætisins (Rom. 6, 19). En ad vera þræll ránglætisins er afmálun sérhvers áumvendts Syndara. Nú þó allir séu ecki þeirri sömu vondsku hádir, t. d. einn er þræll dryckjuskapar, annar saurlífis, einn ágirndar, annar vanans, og enn nú annar sjálfs-rettlætíngarinnar, þá er þetta ad eins mismunur í stjórnarformi syndarinnar, eptir því sem sérhvers syndara hättheldi og náttúru-fari varid er, en allir þessir eru þó eins þrælar ránglætisins; og allir sem áfram halda í því standi, eru vidstödulaust knúdir til ad vera þrælar ránglætis til ránglætis. Afmálun þvílíks frámgángs í syndarinnar þrældómi, gétur sjest af fylgjandi Athugasemdum.

1. Sá sem selur sjálfan sig til ad vera þræll syndarinnar, med hvorju-helst móti sem er, elur slíkan þeinki-hátt, sem opnar syndinni dyr, med hvort-helst annad slag, sem vera kann. Þessi þeinki-háttur er í því falinn, ad skeyta ecki myndugleika Guds, þegar hann stendur í veigi fyrir vorum tilhneigíngum. Fái svoddan þeinki-háttur yfirhönd, er þar eínginn hlutur, sem hindrad géti mann frá ad drýgja

sérhvørt þad íllverk, sem Sálina lystir til: Vera kann: madur fremji samt ecki allslags íllar athafnir, en svo leingi slíkur þeinki-háttur hjá hønum býr, er þad ecki ótti Guds, heldur blygdan fyrir mønnum, edur tillit til eigin á-bata, óhultleika edur æru, sem heldur manni þar frá. Ef madur eitthvørt sinn samþyckir í þjófnadi, mundi hann med sama þeinki-máta drýgja hór edur mord, yrdi hann til þeirra synda freistadur, og ef hann feingi drýgt þær, med von um ad umflýa refsíngu. Svoleidis kémur þad til, ad sá sem yfirtredur eitt atridi løgmálsins, er sekur vid þaug øll, vegna þess, ad sá sami sem bannar eina synd, bannar þær allar; og ásetníngs-misgjørd móti hønum í einu atridi, er jafn-fullkomin skúfan hans myndugleika, sem í mørgum væri. Enn framar ad seigja, ef hjarta manns heldst ecki í hlýdni af ótta Guds, mun vyrdíng fyrir mønnum hafa all-lítinn krapt til ad stjórna því. Syndin mun þá med ýmisligt slag verda tídum í leyndum framin; en verdi hún þad, brýtst hún brádliga út í opinberum glæpum. Því þad er yfir mannsins megn, þó hann neyti allra atburda, ad géta til leingdar dulid ástand og áform sálar sinnar.

Þegar Kóngur Saul hafdi einusinni misvyrdt Guds myndugleika, í breytni sinni vid

þá Amalekíta, þá var þar eingin hindran frá illum verkum framar til í hans hjarta; því fullur af greimju, ofund og illgirni, myrdti hann heilan Borgarlýd af saklausu fólki, fór til frétta vid galdrakonu, og loksins gjørdi enda á sínu vesæla lífi.

2. Sérhvør Synd vér drýgjum, midar til ad nidur=brjóta þær hugar=ástædur, sem móti henni sírída, og verkar einsłags blygdunar= og skeytíngar=leysi. Hreinlæti hugarins er sólpad rækslufemi í klædaburdi, þar hvørju um sig fylgir giørnd til ad fordast sérhvad þad, sem illa skartar; og hvar=heldst sem svo ástendur, ei samvitskan, einkum þá uppeldi og eptir= dæmi til=hjálpa, sterkt varnar=medal á móti illu og ógudligu sidferdi. En ef vér eittsinn vísvitandi øtum oss í lostum heimsins, útslokn= ar sóma=tilsinníng sálar vorrar. Barn þad sem vant er vid ad gánga í ræflum og tøtrum, tapar allri blygdun og finnur til einkis mein= adar, af ad brúka hreinan og þockaligan fatn= ad. Í fyrsta sinni þá manneskjan lætur af vísvri freistíngu sigrast; skédur þad ecki án nockurrar mótstrídu samvitskunnar, og á eptir plagar sálin ad finna til innvortis nøgunar; og þá getur þad skéd, ad hún þeinki, ad hún ei skuli drýgja slíkt optar; nú þegar freistíngin kémur aptur, og ástædurnar til ad mótstrída

henni veiktar eru, verdur manneskjan hægliga ad herfángi Freistarans. Og þá hætta sámsáman mótmæli samvitskunnar, hjartad hardnar og hugurinn verdur tilfinníngarlaus. Þó nú manneskjan, eptir þad sú fyrsta freistíng hefir fellt hana, ætli ad setja sjálfri sér skordur, út yfir hverjar hún hygst ei ad gánga, verdur allur sá ó-setníngur optast ad vindi. Henni fer þá eins og skorkvikindi því, sem fest hefir sig í maursins vef, ad vid hverja tilraun sem þad gjörir ad losa sig, flækir þad ad eins vængi sína í enn fleiri þrádum, og verdur loksins, eptir öll forgéfins umbrot, eydileggjaranum ad bráð.

3. Sérhvör synd sem vér drýgjum, veikir eckj einasta hugarins áform ad standa á mótí henni framveigis, heldur vekur hjá oss ó-stjórnandi girnd til ad ítreka hana; hún er hálfveigis lík herflocki þeim, sem geingur í lid med fjandmönnunum, þar hún verkar á tvo veigi móti oss, bædi med því, ad veikja vora samvitskusemi, og med því, ad gjöra tilhneigíngar vorar aflmeiri. Hvílík er opinber verkan sumra synda, svosem dryckjuskapar og saurlífis.

Þad er eitt af svikrædum syndarinnar, ad losa oss, ad ef vér ad eins látum eptir henni eina hennar ósk, í einu tilfelli, einn tíma, þá skuli hún ei óska þess af oss fram-

ar; edur og ad telja sínum tíldregum áhángendum trú um, ad undanlátsemin muni sína kvalir girndarinnar; en þó þetta géti nú ordid tilfellid stuttan tíma, mun syndin snúa til baka med tvøfølduðu afli og ofbeldi. Hún reisir sig þess hærra í krøfum sínum, sem optar er undan henni látid. Sá sem vilst hefir á slódir þessa eydileggjara, getur sagt, af eigin reynslu, ad þad er þúsund-sinnum torveldara, ad snúa aptur af þeim, enn forda sér ad fara á þær í fyrstu. Vorstl blódsugunnar eptir ædinni og dryckjurútarans eptir fløskunni, er ad eins mjg døpur afmálun þeirrar brennandi girndar, sem liggur í sálum þeirra, er reika á ádurnefndum ránglætis-slódum.

4. Ef vér ofurseljum oss einni synd, verdum vér líka sem naud-þreyngdir til ad gánga út-í adrar, í þeim tilgángi, ad dylja edur afbata þá fyrstu. Þessi sannleikur er svo augljós, ad ei þarf nema adeins til hans ad benda, þar einginn fær honum neitad. Dæmi þar til eru ánægjanlig bædi í Ritníngunni og dagligu lífi. Þegar Syndin er drýgd, er þad hid fyrsta sem syndaranum til hugar kémur, ad dylja hana, ef møguligt er, edur, ef þad tekst ecki, þá ad leita sér afbøtunar. Fyrst leitadist Adam vid ad fela sig millum trjánna í aldingardinum, og þegar þetta hæll

bráſt honum, þá reyndi hann til ad afbata ſig, med ad bera ſokina á konu ſína — já þá konu, ſagdi hann, ſem Gud hefdi géfid ſér — hvør komid hefdi ſér til ad gjøra þad hann gjørdi; ſvo vid ſjálft lá, ad hann vildi kénna Gudi um Synd ſína, eins og þeir gjøra vor á medal, ſem ſkjóta ſkuldinni uppá Forløgin, og ſeigja, ad þeſsi og þeſsi hrøſun hafi átt fyrir þeim ad liggja; ſem gudlaſti møg náſkyldt er.

Nærri þvi ſamu atferd brúkadi David, eptir þad hann drýgt hafdi þá alkunnu Synd med Verſabe. Því fyrſt leitadiſt hann vid ad beita brøgdum til ad géta dulid hana; en þegar honum tókſt þad ecki, greip hann til ad verda mórdíngi; og ſem honum luckadiſt ad verda þad, eignadi hann, med hræſnadri ofurgéfníngu, þetta hrædiliga útfall forſjón Guds, ſeigandi: „Sverdid ſvelgir einn ſvo vel ſem annan," og er þetta tilfelli ecki einſtakt, ad ſynd ſú, ſem byrjaſt hefir med óſkírlífis-augnatilliti, hefir endaſt í blódi. Hvílíkur fjøldi af ſaklauſum barnúngum, bædi ófæddum og fæddum, hefir myrdtur verid, og annad edur bædi þeirra ólucknligu foreldra ſinndum hlotid ad gyſta høggſtockinn fyrir verk þad, ſem einaſta var þó drýgt, til ad dylja þá fyrſtu óleyfiligu athøfn.

5. Hvør-ein ſyndug athøfn midar til ad koma á ſyndſamligum vana, edur hafi hún all-

areidu komid honum á, þá til ad rótfesta hann enn framar. Einstakar syuda athafnir vyrdast í fyrstu sem dropar vatns, er hvør um sig hafi lítin krapt; en sem þær verda ad vana, gjørast þær sem sterkur straumur, er hrífur allt med sér, þad fyrir verdur. Vera kann, ad einn dryckjumadur hafi í fyrstu af náttúru einga laungun haft eptir áfeingum dryckjum. Ské kann ad einhvørjar heimsraunir, edur elska til óvandads selskapar hafi í upphafi komid honum til ad bergja á þeim; en sem hann hefir eitt sinn vanid sig þar til, gétur hann ecki af látid, þó hann sjái ad hvørn dag eydist þar med eignir sínar, máské spillist heilsa sín, en sjálfsagt daudskadist sín sála. Hann verdur í einslags sinnuleysis-ofríki drifinn til ad drecka æ meir og meir, aptur og aptur; og þessi sinnuleysis draumur dregur hans girnd á tálar. Eins kann ad hafa verid í fyrstu háttad þeim, sem nú er ordinn saurlífisins þræll; máské hann í ondverdu hafi verid skýrlífur madur. En þad hann gaf sig í óleyfdan kunníngskap vid annad kyn, þó þad í upphafi verid hafi í aldeilis saklausu tilliti, kann hafa ollad hans ólucku. En þegar hann eittsinn hafdi yfirtrodid løgmál skýrlífisins, féck hann ei framar sett girndum sínum takmark; „hans angu urdu, eins og

Þetur seigir, full hórdóma" og hann gat ei af syndinni latid. O, hvílíkt háskaligt ástand!

6. Þegar ein Manneskja verdur tál-dregin á veg syndarinnar, eru þar optast margar kríngumstædur og orsakir, fyrir utan bønd hennar eigin girnda, sem halda sálu hennar fángadri, og svo framarliga Guds óendanliga miskun ecki kémur í veiginn, setja skurdur fyrir hennar eylífa frelsi. Einn kann t. d. ad hafa lagt lag sitt vid manneskjur sér lyndislíkar — einhvør ávinníngs edr ábata tøpun er þar vid ridin — Stallbrædur hans beita vid hann brixlyrdum — og heimurinn dregur gys ad hønnm (meiníngin er, ef hann breytir lifnadi sínum). Margir hafa i slíkum kríngumstædum mátt þola sterkar áklaganir samvitsku sinnar, hafa úthellt mørgum tárum, og játad sína sterku girnd til ad snúa aptur frá sínum vonda veigi; en nær þad hefir átt framgeingt ad verda, hafa þeir ei megnad til baka ad hverfa; því þó þeir hafi byrjad þad og haldid nockud affram, hafa þeir samt ei gétad yfirgéfid hann ad øllu leiti, hvad sem svo þar af fljóta vildi.

Kiæri Lesari edur Heyrari! er nú nockud af þessu líkt þinn ástandi? Leyf mér þá — sem þeim er vill þinni Sálu vel — ad tala frjálsliga vid þig!

Vertú viss um, ad þú hlýtur af þinum

vonda veigi annadhvørt aptur ad snúa, ellegar eylífliga ad tapast, og þad innan lítils tíma. Þó vantrúarinnar Synir seigi þér, ad einginn háski sé á ferdum fyrir þig, þá trúdu því ecki; því þegar sjálfir þeir eiga daudanum ad mæta, plaga þeir opt ad láta í ljósi, ad þeir sjálfir trúi hvørki ordum sínum né skrifum. Sannarliga, þar er, eins og Ritníngin seigir, „sá Gud, sem jardrícki dæmir," og fyrir hans augliti hlýtur þú innan-skams reikníng ad standa. Edur viltú víssvitandi steypa sjálfum þér í þá grýfju, hvadan eingin Endurlausn er? Þad skélfiliga straff verdur fyrir sjónir sett, sem upphafliga ecki tilreidt þér, heldur Djoflinum og árum hans. Svo ef þú steypir þér í þad eingu ad sídur, má álítast sem þú inntakir ríki myrkranna med makt. Framar vilda eg því vidbætt hafa, ad þad er ei nóg, þó þú á vissan hátt frá löstunum aptur snúir, nema þú snúir þér til Guds. „Þér hafid umvendt ydur, en ecki til mín, seigir Drottinn. Ef mig einúngis tekur sárt til þinnar vyrdíngar og velfornunar hér í heimi, mætti eg hafa látid mér nægja, ad vara þig vid úrvortis glæpum, og forda þér frá ad steypa þér framveigis í þá ólucku, sem þeir med sér færa. Dýrin, þó snaud séu af skynsemi, flýa þó, tilknúd af eintómri drift, frá nálægum háska. Til einkis

er ad leggja netid i augsýn fuglsins; Fiskarnir í sjónum fordast hafsvelginn, og skyldi þá mann-eskjan med opnum augum ana fram í lastanna net? Skyldi hún athugalaust sigla inn i svelg fordæmingarinnar? En þad er lángt frá ecki nálægur háski einúngis og einkum, sem eg vil ráda þér ad umflýa. Mín hjartans girnd og bón til Guds fyrir þér er sú, ad þú mættir frelsadur verda frá þeirri tilkomandi reidi. Vit því fyrir víst, ad þó þú umflúid fáir þá stórkostligu glæpi heimsins, gétur skéd, ad syndir þínar allar liggi samt sem ádur yfir þér, og þér sé handvís eylíf fordæming. Háski sá þér búinn er, flýtur ecki einúngis og allraheldst af opinberum glæpa-verkum. Skéd gétur ad Satan sé, í tilliti til þeirra, útrekinn úr hjarta þínu, en hann hverfi samt þángad inn aptur med sjöfaldt sterkara afli stoltrar sjálfsfullnægju-gjördar. Þad er ecki sú ytri saurgan synd-arinnar, sem sálu þína myrdir, heldur innvortis sýki-sú, af hverri hin útsprettur; „innvortis frá, nl. frá hjartanu, útkóma, seigir Jesús, vondar hugsanir, mord, hórdómur, frillulifnad-ur, þjófnadur og gudlast.” Sér-hver synd sú, er útbrýtst í lifnadi þínum, er merki þeirrar innvortis spillíngar, í þinni náttúru. Sé ecki brunnur þessi hreinsadur, er nærfeldt til einkis

ad reyna til ad hreinsa læki þá, sem af honum renna. Ecki meina eg samt med þessu', ad ráda þér frá, ad brjóta af þér Syndanna útvortis fjøtur, heldur ad eins ad yfirtala þig til, ad brjóta þang svo af þér, ad þú verdir réttlátari, eptir enn ádur, fyrir Gudi.

En sú eina óhulta adferd, sem brúkast skal hér til, er sú sem Frelsari vor bendti til med þessum ordum: „giorid ydrun og trúid Evangélio!" Øll endurbót, sem ecki er svoleidis løgnd, er einúngis umskipti á løstanna yfirrádum. En svo framt þú gétur — svo sekur og óverdugur þú ert — trúad á Christ, en skúfad frá þér allri von, øllu traustí á allt annad, muntú holpinn verda. Hans blód var úthellt fyrir syndara, já, þá stærstu syndara. Hans hlýdni allt til daudans þóknadist Gudi svo vel, ad sérhver syndari, hvørsu vondt sem hans sinnislag og skammarlig hans breytni verid hefir, sem kémur til hans í hans Sonar nafni, berandi fyrir sig hans réttlæti — já þad einúngis og eckert annad — mun, fyrir hans skuld, medtekinn verda. Hann, nl. Jesús, hefir ecki einúngis hlýdt og dáid vegna þvílíkra, sem þú ert, heldur er hann nú til hægri handar Gudi, og kémur því til leidar, ad sem best náð verdi því stóra auguamidi hans holdtekju, lífs og dauda; hvørsvegna hann er fær um

ad frelsa í fullkomnasta máta alla þá, sem koma til Guds fyrir hans adstod, þar hann lifir æfinligá til ad bydja fyrir þeim."

Ef þú nú, minn Vin! gétur med sannri trú, ad þér fadmad lærdóm þennan, mun hann vissuliga bæta úr öllu böli þínu. Ef þú af öllu þínu hjarta gétur tekid á móti sáluhjálpinni, veittri sem af einskærri nád, fyrir endurlausn Jesú Christs, muntú hana vissuliga ødlast.

Ef þú gétur játad syndir þínar yfir Guds Sonar forufæringar offri, þá er Gud trúfastur og réttlátur, ad fyrirgéfa þér þær og hreinsa þig af öllu ránglæti. Gud gjörir eckert vegna þinnar betrunar, bæna edur tára, svo sem orsakar, hvorrar vegna hann skyldi vilja móti þér taka og frelsa þig; heldur allt hvad hann gjörir þér gott, gjörir hann vegna þess, sem hans Sonur hefir fyrir þína skuld gjördt og lidid. Ef þú gétur nú verid þess sinnis, ad gjöra eckert af þessu, í því skini edur í þeim vonum, ad njóta miskunar fyrir þess sakir, heldur allt í trausti hans, ad hvorjum Gudi alleina vel-gédjast, þá er þér eylíft líf handvíst. Og á hvorjum tíma sem þessi lærdómur fyllir þína, út af syndum ángurbitun, sálu fridi, mun hann undir eins hreinsa hjarta þitt á þann hátt, ad allir þínir fyrri veigir

verda þér haturlígir, en aptur á 'mótí verdur Vindindi, réttvísí og gédgjædska þitt eptirlæti.

En ef hjarta þitt er al...eidu forherdt af syndinni; ef Jesús, og sálnhjálpin af nád, fyrir hans Nafn, hefir eckert þad í sér, sem dregur hjarta þitt til sín, heldur stinggar framar þar vid, vit þá fyrir víst, ad þar er eckert annad nafn, undir himninum, mønnum géfid, fyrir hvørt þú kant hólpinn verda; og Endurminníng þess, ad þú, ad minsta kosti, hafir, eittsinn í lífi þínu, heyrdt þennan sannleika, mun ecki all-lítilli beiskju auka í þinn dandans bikar.

Sælir eru þessvegna allir þeir, hvørjir í nafni Jesú Christs apturснúa til hans Fødurs og þeirra Fødurs, til hans Guds og þeirra Guds, og eru svo ordnir fríir frá syndinni, og bera sinn ávøxt til helgunar! Þeir sømu taka og svo framførum; en þad skédur á gagnstædan hátt því sem þér, kæri Vin! hefir hér ad framan fyrir sjónir sett verid. „Sá réttláti, seigir Job, mun halda vid sinn veg, og sá sem hreinar hendur hefir, skal gjørast æ styrkvari og styrkvari.“ Øll Guds þjónusta mun falla hønum æ léttari, sannleikurinn sýnast hønum æ angljósari, merkin til hans umvendunar verda æ margfaldari, og rætur hans gudliga sinnisfars verda æ djúpsettari; já vonin um

hans, ſkóduglyndi í því góda mun ſífeldt auka þeſs krapta; ſvo ad ſorg og gledi, einvera og mannaſelſkapur, rádſtafanir forſjónarinnar og ókvardanir nádarinnar, mun gjörvallt ſtoda til þeſs, ad gjöra hann æ hæfari og hæfari til arfſkiptis þeirra heilögu í ljóſinu.

## Náttúru-Spilling Manneſkjunnar.

(eptir Gellert).

Med lag. Þeir ſem ad Chriſti Kroſsi ſenn, og ſ. t.

Hvör af náttúru' eg ordinn er" inura mann nær ranſaka?" hvílíkan vidbjód vottar mér" vondſka míns hjarta ſtaka!" af því Spillingin í því býr," illſku þad dylur ſtrída," ſannleikans ljóſi fyrir flýr," fæliſt ranſókn lída.

Þad er ſpekinnar fyrſta fet," fávitſku ſína' ad þeckja," hvörſu þráliga hjartad lét" heimſku ſkjæda ſig blecka;" fullt med ſjálfselſku' og hofmódshót," heita vill ſaklauſt jafnan;" ydrun fordaſt og yfirbót," ecki vill löſtum hafna.

Satt er þad, eg finn Samvitskan" sann-færir stundum hjarta;" Skynsemin mér út-skíra vann" skyldunnar vísda parta." Ei kann eg byrgja augu mín" aldeilis mót dygdinni," af hennar ljósi opt mér skín" einn geisli, litt þó sinni.

Þó svo dapurt ljós þetta er," þá dygda til mig hvetur," ad frá skynsemi ecki sér" inn-þreyngt til hjartans gétur;" forgéfins líka lýsir þad," lætur ei hjartad undan," hefir sitt lögmál hátignad," hlýdir því med ástundan.

Einn dómara finn eg í mér," opt sem ró hjartans kéfur," hann klagar mig svo felms-tra-fer," framrás til glæpa tefur." Samþycki ei því vonda' eg vil," vinna sem tídum hendir;" gjöri' ei heldur því góda skil," gyrnd hjartans til sem bendir.

Yfirdrepskap, á ödrum sem" álít refsandi vera," sjálfum mér tídum samt eg tem," sýnist og nytsemd géra." Lit med prettudum læt mig sjá," laungum svo marga blecki;" ödrum því vera sýnist sá," sem eg er reynd-ar ecki.

Eg veit ad kvikul eignarád" andæfa heims ei verka," sálunni' ad efla sanna dád" sóma'

edur farsæld merka;" þó er mín hjartans ósk sú ein," ad eg þaug feingi hljóta;" hleyp eg því til á hvørja grein" hégómans byrdi' ad njóta.

Eg veit hve rídur á því mér," ad athøfn med forsjá vandi," en breyti þó med øllu hér," eptir lundernis standi," tældur af føgru táli þrátt," tek ei lund minni' ad hlýda;" tilhneigíng veldur víllu=hátt," ad veiginum gleymi frída.

Nálægu góda nái' eg því" naumast med list ad finna;" þad sem mín leitar, þad umflý," þess' leita' er kann ei finna." Stoltur þá veltist luckulag," lasfhræddur í mótlæti;" eíngum sætandi hvíldar=hag," hvíld svo eg ødlast gjæti.

Náúnginn margra ad mér á" andsýnlíng skylduverka;" rétti þeim hønum ræni eg frá," ræki litt kosti merka." Gleymi hann skýldu' ad greida mér," gjøri' eg hann fljótt ad dæma;" yfirsjón hans þá heita fer" hegdun ránglætis slæma.

Elskan til Guds ei orsakar," ødrum þó nytsemd magni," heldur Sjálfselsku símilsfar," og sókn eptir mínu gagni." Hédan út=

sprettur hræsni og slægð," hvörjum ad dyljast
undir:" hofmóður, ofund, haturs-nægð," og
harðýdgi' á ýmsar lundir.

Hér er mitt kall ad heidra Gud," hvar
um nær þeinkja nái," finn eg min Skylda'
er forsómud;" fridar míns litt eg gái." Nátt-
úru dýrar dásemder" Drottinn sem vill mig
frædi," allar standa þær opnar mér," en ment-
un nauma grædi.

Skodan þeirra þó skyldi mig," um Skap-
arans vitsku ad dæma," mátt og gjædskuverk
margvíslig," min skynsemd vill þad sæma;"
en hjartad alls eckert, hræraſt kann," heyrir
samvitskan eigi;" þessvegna Gud ei þeckja
vann," þó af hans verkum meigi.

Luckn géfur hann marga mér;" Mun eg
hans gjædsku nýta" til minna heilla best, sem
ber," búinn rétt hlýdni' ad veita?" Nei, fyrir
tánga medferd min," minn hyga gjøri eg
sneida" þackar og elsku athøfn sín," er honum
bar ad greida.

Skynsémi tjáir min opt mér," ad mildi
Guds sé hin bestu" lán og gjædin i lifi hér,"
linar hún naudum flestu." Hvílíkri ærna hled

eg sok'' hér uppá samvitskuna,'' henni þegar eg hafna tek,'' heims fyrir vináttuna!

O, Gud! hve blindur opt eg er,'' ad audnn gék minnar sálu, vera dýrmætur vyrdtur þér,'' vid jardar-glísi hálu,'' vid daufnm lofstýr veraldar,'' vid girndum, sem mig kvelja,'' vid þeim hégóma ei vyrdist par,'' vid því, sem ei má telja!

Drottinn er heimsins Herra sá,'' hvörs adstod mig á-reida'' skylda mín er; en honum þá'' hlýdni nær mun eg greida?'' Ymist mig hindrar ótti fast,'' ýmist mitt traustid reynist,'' traust á sjálfum mér svikulast,'' sem dulld hjá mér leynist.

Þvílíkt er mannsins hjarta hér;'' hvar þess spillingu veldur?'' síst kom það, Drottinn! svo frá þér,'' sannheilagt mikln heldur.'' Sjálf er Manneskjan sek þar í,'' sinni vyrdíngu hneckti;'' hvörstveggja olli hrösun því,'' hjartad og skynsemd bleckti.

Hversu spilltir vér hittumst, samt,'' hve veikir oss ad græda,'' Himna-fadur er hardla tamt,'' hjálp sinni oss ad giæda.'' Lætur sitt ordid lífsins hér'' léna og nýa krapta,'' í

skynsemd ljósid innleider," í hjartad hreinsun tapta.

Vittú þá madur móti sjá" miskunar-krapti slíkum," sem býdur sig þér ad búa hjá," og blessar þig dugnad' ríkum?" viltú þá sjálf-ur vyrda þig," velferdar ómaklegann?" fram-býdur enn nú frelsid sig;" fagna med hug ótregann!

---

*** *** ***

Viss lærdur, madur er sýndi stórt forakt til trúarbragdanna, lét eingu ad sídur uppfræda Børn sín í þeim miøg kostgjæfiliga. Þegar vini hans furdadi á þessu og spurdu hann hvørnig þad tilkjæmi? svaradi hann: Eg óska ad Børnin mín mættu njóta meiri Sálar-ró-semdar og samvitskufridar, í þessu lífi, enn eg norid hefi, og þad géta þaug ødlast, ef þaug trúa meiru, enn eg hefi trúad. Hér af siest, hvad lítid er ad marka, þó trúarlaust fólk sýnist hugbraust, og standa fast á meiníngu sinni. Þess hjarta-rósemd er opt undir nidri, eins og þess manns, er sefur á stýrislausum báti í ólgu-sjó; svefn hans er kvikull miøg og óróligur, og hann vaknar loks vid vondan draum.

* * * * * * * * *

Í vorri náttúru=spillíngu vórum vér líkir þeim vesæla manni, sem hrasadi medal ræníngja.

Þá kom lögmálid, og þad gêck, eins og Prestrinn og Levitinn, fram hjá oss, án þess ad lækna vor sár, edur hella í þang vidsmjöri; já, þad jafnvel uppýsdi þang, og jók í þeim svida. Sá miskunsami Samaritan hlaut því ad koma, til ad hella í þang olíu nádarinnar, og skýla vorum nakleika med sínu réttlæti. Þetta er og í raun og sannleika skéd; lofadur veri Gud! Gjædska Frelsara vors hefir andsýndt kjærleikans furduverk á oss. Medan lögmáls=öldin yfir=stód, var brunnur nádarinnar líka sem læstur, svo þegar eina sálu þyrsti eptir lífsins vatni, fêck hún adeins nockra dropa þar af, sér til svölunar, en nú stendur brunnur þessi frí og opinn fyrir vor allra augum!